# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

III. | GIMLI, MAN., FEBRÚAR 1895. | 2.


## Náttúran segir satt.

Ég veit að ég trúi' ekki kirkjunnar kreddum,
því kynlegt svo margt í þeim virðist mér sýnast;
ég held líka' að ritning sé ein af þeim „Eddum“,
sem á fyrir höndum í gleymsku að týnast.
Hvað þá verður gripið sem guðanna mál;
það get ég ei vitað, en sumt verður tál.

Ég veit það er ritað í veraldar bækur,
að vantrúin skelfingar dóm muni sæta.
Þeir trúuðu herma frá himnum sé rækur,
heimskingi hver, sem ei náir að gæta
þess orðs, sem ei minsta fær innibyrgt tál,
þess orðs, sem þeir kalla guðs heilaga mál!

Þér skyrrist ei prestar að skipa' yðar sæti
með skröksögu-bulli frá afgömlum tíma;
þér eignið það guði, sem mesta heims mæti,
er menn, oft af brögðum fá saman að stíma.
Þér fyllið af meinsemdum fákænan lýð,
fjarskaleg enn þá er villunnar tíð.

Þér dæmið svo hart þann, sem mælir á móti,
að miskunin sjálf verður blekt af þeim orðum;
þér hamist svo áfram í ritningarróti,
að réttlætið fær ekki' að standa í skorðum.
Ef ekki ég trúi eins og er skráð,
þeir ætla mig sjálfsagða helvítis bráð.

Ég á þar að kveljast í eilífum loga,
og iðrunar-merki þar stöðugt að sýna;
þar eiga társtraumar stríðir að boga
og sturlun um eilifð mitt hjartað að pína.
Mér á ekki' að veitast eitt miskunar teikn,
mér ógnar sú voðaleg skelfing og feikn.

Hugarkvöl slíka má hreint ekkert stilla,
ef hjálpræðis framar ei sæist neinn vegur.
En guði sé lof, að ég veit það er villa,
vonin því styrkist og hugur sorglegur.
Drottinn ei skorta hin dýrustu ráð,
dóminum stýra þær Viska og Náð.

Skynsemin þroskast og skýringar stækka,
skelfingin minkar á prestanna vörum.
Þekkingin vænkast og villurnar smækka,
vísindin mannkynið leysa úr snörum.
Þeir taka sér snið eftir tímanna rás,
og tryllandi hugmyndum marka svo bás.

Þú segist nú kenna, sem kreddurnar bjóði—
og kennir því líkast, sem alt munir skilja;—
þú samþykkir upphátt en efar í hljóði,
og alt er það lagað að skaparans vilja.
Þú talsmaður drottins, því talarðu svo?
Þér tjáir ei hendurnar lengur að þvo!

Ske má þú finnir að fært sé í letur,
er fræðir þú menn innan kirkjunnar veggja;
en geturðu' ei kent þar um kærleikann betur?

Hvað er þú maður? Þú til hans vilt leggja.
Hugsarðu' að mildir þú mannlega sál,
að mæla þar sífelt um píslir og bál?

Enn þá ó, kirkja! er kunnur þinn starfi,
að krýnir þú verk þín með blóðdrifnum hjúpi.
Af feðrunum gömlu þú fékst það að arfi,
að fela oft veginn að sannleikans djúpi.
Þótt segir þú ritningin sé ekkert tál,
sannara' og helgara þekki ég mál.

Lít þú á himinsins ljósanna raðir,
ljómandi blómin og fossanna niðinn;
lít á hvað fuglarnir leika sér glaðir
í loftblænum þíða með inndælan kliðinn.
Þetta er aldanna óskeikúlt mál,
sem ætti að nema hver lifandi sál.

Lít þú á fjallanna tignlegu tinda
og tröllauknar bárur, sem rísa' út á sænum;
lít þú á hálsana, hæðir og rinda,
er himindýrð sveipast í kvöldgeislum vænum.
Þetta er alheimsins eilífa mál,
sem æ getur numið hver hugsandi sál.

Lít þú ó maður! á laufskrúðið unga
sinn lífhöfund góðan það má ekki dylja;
þar hljómar eins fagurt guðs talandi tunga
og talar með snild svo að hver einn má skilja.
Hér heyrir þú skaparans hreinasta mál,
heilagan sannleika, lausan við tál.

X

# ER GUÐ TIL?

(Þýtt).

Þó að engin þau vísindi eðr tegund vísinda sé til, er sanna megi með að engin æðsta vera sé til, þá eru þeir þó margir, bæði vísindamenn og aðrir, sem halda því fram, án þess þú að geta sannað það, að enginn guð sé til.

Hvað mig snertir, þá hefi ég engan efa á því, að hann sé til. Ég ræð það af náttúrunni og skynseminni, að einhversstaðar, í hinu endalausa ríki andans eðr rúmsins, sé til guðdómleg regla eða réttara yfirnáttúrleg skyni gædd vera, sem er hinn óendanlegi og eilífi guð—drottinn alheimsins. Fyrir mínum sjónum er því tilvera guðs ómótmælanleg og augljós öllum þeim, sem með skynsemi vilja á það líta.

Spurningin er ekki um það, hvar guð sé, eðr hve margir séu guðirnir, ekki um það, hve margar guðdómlegar verur karlkyns eða kvennkyns séu í sólkerfi voru, ekki um það, hve margir undir guðir eða óæðri guðir séu á jörðu þessari. Hún er ekki um það, hver þeirra sé hinn rétti guð, Buddha eða Brahma, eða Kristr, eða Jehóva, eða Indíána guðinn: „Hinn mikli Andi", eða „Faðirinn" guð hinna kristnu manna, heldr um það, hvort nokkur guð sé til? Hvaða skynsamlega sönnum höfum vér fyrir tilveru hans? Er guð persóna eða hugmynd eða lögmál? Guðsneitendr segja, að enginn guð sé til, að náttúran öll sé aðeins afleiðing af tilviljun eða þyngdarlögmáli. En þessir guðsneitendr hafa ekki getað sagt oss, hvaðan hin fyrstu efni eða hin fyrstu lög náttúrunnar hafi komið, ekki sagt oss, hver hafi fundið fyrstr, eða fyrst sett lögmál þyngdarinnar, ekki hver hafi fyrst leitt fram lífið eða ljósið eða vitið. Sumir vísindamenn segja að þeir hafi djúft í vatni niðri fundið hið fyrsta frækorn í afarlítilli smáögn, sem kallast protoplasm (frummyndun af proto: fyrstr og plaíó: og mynda) þetta protoplasm segja þeir, að sé hin upprunalega myndun lífsins. Það er hið lifmyndandi frumefni í öllum lifandi líkömum, og maðurinn grösin dýrin eru öll afkomendr þessa protoplasms. En þessir vísindamenn gleyma því, að hvert eitt einasta barn náttúrunnar hlýtr að hafa átt sér móður og hver móðir foreldri og hvert foreldri forfeðr, þeir gleyma að segja oss, hvaðan sé komið þetta líf hinnar fyrstu frummyndunar.

Ef að þroskunarkenningin er sönn, hvernig stendr þá á því, og er það ekki undarlegt, að þessi protoplasm skuli ekki nú sem fyrri skapa menn og grös eða dýr?

Það eru verklegar sannanir, sem hér vanta. Þessir vísindamenn ættu að koma með sannanir upp á þenna framburð sinn, að þetta protoplasm, þetta frumfræ geti myndast af sjálfu sér. Ein góð sönnun er betri en þúsund ágiskanir og menn mega ekki villast á þessu tvennu og þegar þær koma, þá getum vér séð, hver er valdr að sköpuninni, guð eða protoplasmið. Vísindamennirnir eru vanir að segja í ræðum og ritum, að enginn guð sé til, en þeir segja oss ekki frá því, hvernig þeir hafi orðið þess vísari. Því að, eins og áðr er sagt, þá er engin sú vísindagrein til undir himninum, sem hægt sé að sanna það með að enginn guð sé til. Að vísu viðrkenna vísindamennirnir hina afarmiklu möguleika náttúrunnar, en hvernig er hægt að gjöra grein fyrir þessum möguleikum, nema þeir séu einhversstaðar aðfengnir, frá einhverjum huldum krafti, og þetta hið mikla afl er það, sem menn kalla guð.

Fyrst að nú aflið er þjónn guðs, þá megum vér ekki tileinka þjóninum alt, en ekkert húsbóndanum, og vér megum ekki gleyma því, að enginn lækr er til án uppsprettu, ekkert barn án föðr eða móður. Þegar því ljós sólarinnar skín í augu vor, þá megum vér ekki villast á þessum geislum og sólinni sjálfri, því að geislarnir eru aðeins sendiboðar frá sólinni; og eins er því varið þegar ljósið náttúrunnar, hið mikla, skín í augu vor, eða ef að vér finnum eitthvert frumafl í náttúrunni, þá megum vér ekki villast á þessu litla broti aflsins og ætla, að það sé frumefnið sjálft, sem skapaði heiminn.

Þá megum vér ekki gleyma lögmálinu, hinu eilífa lögmáli, sem stjórnar þessu afli og því síðr gleyma því, að á bak við þetta lögmál stendr skynsamlegr viljakraftr, sem stjórnar því. En ef vér hugsum nokkuð út í það, þá hljótum vér að sjá það, að hvar sem skyni gæddr viljakraftr stjórnar einu eðr öðru, þá er hann æðri, en þeir hlutir sem stjórnað er. Lögmálið stjórnar aflinu og lögmál bendir á löggjafa og lögmál ber vott um skynsemi, er stendr á bak við lögmálið. Ef engin væri skynsemin, væri ekkert lögmálið og ekkert löggjafarvaldið.

Ef að menn vilja sannfæra sig um það, að skynsemi opinberi sig í lögmáli, þá þurfa menn ekki annað, en að líta á reglu og lögmál náttúrunnar.

En svo að ég snúi mér nú beint að efninu, þá skal ég segja yðr, hvað ég mundi gjöra, ef að guðsneitandi einn eðr annar kæmi til mín og krefði mig um sannanir fyrir tilveru guðs. Ég mundi reyna að sýna honum fram á lögmálið um orsök og afleiðing, sýna honum, að hver afleiðing (hver hlutr, hvert verk, hver hugsan, hver atburðr) hlýtr að hafa sína orsök, sýna honum, að án orsakar getr engin afleiðing verið til (enginn hlutr, ekkert verk enginn atburðr engin hugsan). Ég mundi sýna hina stórkostlegu byggingu alheimsins, tign og fegrð jarðar þessarar og hina leiftrandi fegrð hinna sýnilegu heima úti í geymnum. Eða með öðrum orðum, ég mundi benda honum á furðuverkin í náttúrunni, á tilveru og hreifingu sólar og tungls og halastjarna og annara jarðstjarna og sólna. Því að hver er sá, er geti efast um tilveru guðs, er hann lítr upp í hinn alstirnda himinn?

Þessu næst mundi ég benda honum á snúning jarðar, er hún snýst um möndul sinn (sem menn segja) og fleygist áfram um geyminn með þúsund mílna hraða á klukkustundinni og veldr þá breytingum dags og nætr, en snýst um sólina með 68 þúsund mílna ferð á klukkustundinni og veldr þá árstíðum. Ég mundi benda á hinn furðulega vöxt jurtaríkisins, á hina enn þá undarlegri þroskun dýraríkisins, og ekki gleyma því, að minna hann á, að hin óendanlega fjölbreytni ávaxta jarðar virðist vera gjörð jarðarbörnunum til nota, því að án þessara ávaxta, án þessarar framleiðslu jarðar af jurta og dýraríki virðist svo, sem maðrinn ekki hefði getað lifað.

Þégar vér athugum furðuverk sköpunarinnar, er það þá ekki undarlegt, að, þrátt fyrir alt, sem maðrinn hefir framkvæmt dásamlegt í listum og iðnaði og vísindum, þrátt fyrir það, að honum fer einlægt fram í þekkingu og mætti, er það þá ekki undarlegt segi ég, að hann skuli ekkert hafa gjört eðr skapað, sem þoli samanburð við sköpunina. Hann getr ekki jafnast við hinar einföldu tilraunir náttúrunnar að skapa. Maðrinn getr ekki veitt smíði sínu lífið. Hann getr ekki búið til eitt einasta grasblað, og veit ekki einusinni hvernig grasið vex eða myndar træ,

Þessu næst mundi ég benda guðsneitandanum á hin óbreytanlegu lög alheimsins, á öfl náttúrunnar, sem stjórna öllum hlutum og viðhalda öllum hlutum, sem allir hlutir eru undirgefnir og hljóta skilyrðislaust að hlýða.

Alt þetta að ógleymdum manninum, lifandi, skyni gæddum eru í mínum augum sannanir fyrir tilveru guðs eins ljósar og dagrinn.

Tilvera hlutanna yfir höfuð sannar tilveru guðs, því að, hvernig getr nokkr hlutr verið til, eða orðið til án orsaka. En sé svo, þá leiðumst vér frá orsök til orsakar í óslítandi keðju upp til hinnar fyrstu orsakar alls. Það er óhugsandi að nokkr tilviljun geti hafa skapað heiminn með sinni aðdáanlegu reglu. Vér gætum eins vel hugsað oss, að samanhrgúun stafa af handa hófi gæti búið til heilt bindi af skáldaljóðum, eða Websters orðabók, eða eitt af hinum stóru dagblöðum heimsins. Ég vildi miklu fremr trúa hinni vitlausustu æfintýrasögu, sem nokkurntíma hefir verið skrifuð fyrir trúgjarna alþýðu. Ég vildi heldr trúa vitlausustu sögunum í Talmud og Kóraninum,* heldr en því, að heimrinn hafi til orðið án skapara.

Aflfræðislegar uppgötvanir benda mótmælalaust á einhvern, er hafi uppgötvað þær. Og öldungis eins og prentvélin, skuggsjáin, fréttaþráðrinn, gufuvélin eða rafrmagnsljósin eru sönnun fyrir mannlegri uppgötvun og mannlegri tilveru, þannig er alheimrinn sönnun fyrir guðlegri tilveru. Eins og uppfindingamaðrinn ætíð hlýtr að vera til á undan uppfinding sinni, þannig hlýtr og guð að hafa verið til á undan náttúrunni og heiminum. Eða með öðrum orðum orsökin hlýtr ávalt að vera til á undan afleiðingunni.

En hvað upphaf guðs snertir, þá kunna menn að spyrja, hver hafi verið til á undan guði, ef að guð var til á undan náttúrunni, eða með öðrum orðum, menn kunna að spyrja að því hvernig guð hafi orðið til? En við þeirri spurningu hefi ég aðeins það að segja, að þegar ég sé hann eins og hann er, þegar ég sé hann með augum mínum, eins og ég nú sé hans verk þá getr verið, að ég verði færari um að svara því. Annars virðist það vera þýðingarlítið að grufla út í uppruna guðs, því að, ef að menn geta ekki skilið uppruna mannsins, hvernig eiga menn þá að geta skilið uppruna guðs. Vér verðum að láta oss nægja það, að sjá hann í verkum hans, sem menn allsstaðar hafa fyrir augum í náttúrunni.

---

* Í Kóraninum er saga sú: að þegar Mahómet fór til himna einusinni, þá sá hann engil og voru 70 dagleiðir milli augna hans. Svo eru þar margar fleiri sögur. Þýð.

Lítið því vinir í kringum yðr, og athugið hvað fyrir augun ber. Hugsið nákvæmlega um hina óendanlegu dýrð alheimsins. Lítið til himins og sjáið drotningu dagsins, er hún stráir geislum sínum yfir jörðina og útbreiðir hagsæld og vellíðan. Hugsið um hið ósýnilega afl, sem knýr hnettina áfram, hugsið um hið enn undarlegra skyni gædda afl, sem hlýtr að stjórna þessu framknýjandi afli, svo að það sé sí og æ verkandi. Lítið hinar óteljandi millíónir hinna tindrandi stjarna, er fljóta um í hinu óendanlega himinrúmi. Hlustið á þyt vindarins, söng fuglanna og nið hinna rennandi lækja. Hlustið á hið óttalega þrumuhljóð rafrmagnsins. Lítið á hina ótæmandi fjársjóðu hinnar iðgrænu jarðar, á blómin fögru og ýmislegu, sem skreyta hana og spyrjið yðr svo sjálfa: Hver hafi verið sá snillingr, er hafi getað fundið upp alla þessa tign og dýrð náttúrunnar? Hver getr það verið annar, en hinn mikli alvaldi guð, sem stjórnar öllum hlutum frá ögninui í daggardropanum til hinna ótölulegu þúsunda sólkerfanna.

Sumir hugsa sér, að guð sé ekki persóna, heldr hugmynd, regla, lögmál eitthvað líffæralaust, ópersónulegt. En hvernig getr það verið? Vér getum ekki hugsað oss guð, án þess hann hafi meðvitund og skynsemi og vér þekkjum hvergi skynsemi, nema hjá líffærum gæddri byggingu, nema hjá persónu, sem hefir vitund um sjálfa sig.

Aðrir hugsa sér, að guð sé allstaðar í náttúrunni, en hvergi sérstaklega. En sé guð persóna er það óhugsanlegt. Vér þekkjum enga persónu, sem geti verið í mörgum stöðum í einu. Áhrif guðs, verkanir hans geta verið allsstaðar, og þar afleiðandi getr hann komið fram allsstaðar í öllum heimi, sem hinn í öllu starfandi guð á einum og sama tíma.

Sumir hafa það á móti guði, að heimrinn virðist vera vondr að eðli sínu. Vissulega er mikið af tjóni böli og mæðu í heiminum, en það stafar, ef rétt er skoðað, alt af vankunnáttu, af ofbrúkun eða vanbrúkun hlutanna. Það er ekkert það ilt engin sú synd til í heiminum, sem ekki megi heimfæra undir þetta.

Og lítum vér til ódauðleikans, þá ætti dauðinn ekki að færa oss neina skelfingu. Því að sé svo, að dauðinn sé meðal til þess að flytja mennina yfir í hinn andlega heim, þá gjörir það svo sáralítið, hvernig vér erum fluttir yfir um. Ég trúi því, að dauðinn sé alveg óhjákvæmilegr, hann kemr til þess, að losa sálina frá fangelsi því, sem náttúran

hefir haldíð henni í, og það gjörir ekki mikíð til, hvernig þetta hulstr sálarinnar er brotið, hvort það er með eldi eða vatni, voveiflega eða á sóttarsæng.

Að lokum vil ég bæta því við, að guð lifir og hræist. Í hjarta voru felst hulin sannfæring, sem vér ekki getum hrundið frá oss, að hann sé til og vér finnum það, að hann er elskulegr og velviljaðr mönnunum, ef að vér hlýðum lögum hans, Öll hans verk og öll sköpunin, alt viðhald heimsins andlega og líkamlega, sýna hans óendanlega fullkomleika.

* * *

Grein þessi er lauslega þýdd úr „Freethinkers Magazine". Mér fanst hún vera með betri sönnunum fyrir tilveru guðs. Höfundr hennar hefir verið Spiritualisti og slepti ég úr henni ýmsum sönnunum fyrir tilveru guðs úr andaheiminum, því að þær sannanir þurftu sjálfar sönnunar við, og svo hefir það verir sagt um mig, ef að ég hefi komið með eitthvað eftir Spititualista höfunda stundum, að ég væri sjálfr Spiritualisti, en stundum, að ég fyrirliti Spiritualista. En því er svo varið, að ég læt það liggja milli hluta.

Þýð.

---

# Sýnishorn af sköpunarsögu.

Saga þessi er tekin eftir Yavarino, Indíána einum 107 ára gömlum í Californíu. Geta menn af henni fengið hugmynd um, hvernig sumar sköpunarsögurnar hafa verið, sem ímyndunarafl manna hefir verið að búa til. Sagan er á þessa leið:

Áðr en jörðin var til var ekkert til annað en vatn, nema fjallið Tamalpais* var það klettr einn mikill og bjó þar Hulie hinn mikli guð *Coyot*-anna**. Dag einn var höfðingi Coyotanna að ganga með vatninu og mætti þá Kucksin hinum mikla höfðingja *Grecco*-anna*** og

---

* Tamalpais er fjall eitt norðan við San Francisco í Californíu.

** Coyote kallast sléttu-úlfr þar vestra.

*** Grecco er indverskt nafn á fálka.

settust þeir á ráðstefnu og réðu það af, að fara að skapa jörðina.

Hinn mikli Coyote lét þá höfðingja Grecco-anna gjöra körfu eina úr rótar tágum og sefgrasi til þess að flytja í jörðina og klettana ofan af himnum, en á meðan safnaði hann sjálfr reyr og sefgrasi og batt það saman og breyddi það á vatnið, til þess að leggja þar á jörðina og klettana. Þegar jörðin var nú sköpuð, þá gjörðu þeir trén og plönturnar. Svo réðust þeir aftr um og réðu það af, að skapa menn til þess að byggja landið. Hinn mikli Coyote skóp heila þjóðflokkana í einu og fleygði svo hverjum þjóðflokk þar, sem hann átti að búa. Þannig féllu „Napa" Indíánar í Napadalinn, Ochelamne-Indíánar neðantil í Sakramentodalinn og Locohomenes-Indíánar á bak við fjallið St. Helena o. s. frv.*

Trén og plönturnar báru sem ávexti fisk og villibráð og aðrar matartegundir, en alt saman soðið, og þurftu mennirnir því ekki annað að gjöra, en að tína sér ávexti þessa, þegar þeir voru svangir. En, er tímar liðu fram, urðu mennirnir ákaflega latir. Reiddist þá hinn mikli Coyote og sagði, að þeir væru ekki betri, en klettarnir og steinarnir. Lét hann því trén bera hnetr og akarn og búskana bera ber í stað hins soðna fisks og kjöts. Neyddust mennirnir þá til að veiða dýr og fiska, til þess að geta lifað. En þá féll þeim illa fiskrinn hrár og kjötið og báðu hinn mikla Coyote, að gefa sér eld til að sjóða matinn við. Hinn mikli Coyote kallaði þá til sín fugl einn (Kolibrifugl), því hann var fleygr vel og sendi hann til himins, að leita að eldi. Hann var allengi í burtu, en kom svo aftr og sagðist hvergi finna eld. Aftr sendi hann fuglinn og sagði honum að fara hærra. Fuglinn var lengi í burtu, en er hann kom niðr var svo mikið flug á honum, að hann sökk á kaf í jörð niðr og stóðu aðeins fætr hans upp úr. Coyotinn tók í fætr honum og dróg hann upp og spurði hann, hvort hann hefði eld fundið. En hann kvað nei við því. Þá bauð hann honum enn að halda í norðr, þangað, sem endur væru vanar að klekja ungum sínum. Fuglinn fór þá norðr, til þess, er hann kom að kofa einum, er gjörðr var af hellum og sefi og var þar önd ein að klekja út ungum sínum.

---

* Saga þessi er sköpunarsaga Napa-Indíána og hafa þessir aðrir flokkar verið nágrannar þeirra.

Sá hann þar eld inni og neitti nú bragða og greip brand einn úr eldinum og hélt heimleiðis. En á leiðinni flugu neistar af brandinum í allar áttir, og féllu hinir mestu neistarnir á Maple-trén, en hinir smærri á tré annarar tegundar. Þegar heim var komið bauð hinn mikli Coyote mönnunum að taka Maple-við og gjöra sér af því tól til að kveikja upp eld með. Menn hlýddu honum og hefir síðan aldrei eldr brostið.

Þetta er þá sýnishorn af einni sköpunarsögunni hún er ofr barnaleg eins og vér sjáum, miklu barnalegri, en gamla sköpunarsagan Gyðinganna, sem vér þekkjum úr fyrstu Mósesbók. En svona eða álíka hafa sköpunarsögurnar verið, sem gengið hafa um meðal kynflokkanna og þjóðanna löngu fyrir daga Gyðinga, áðr en sköpunarsaga sú myndaðist, sem tilfærð er í ritningunni. Þessar sköpunarsögur hafa þroskast og vaxið, fyrst hafa þær verið eins og barn í reifum, skynsemdar litlar, en svo hefir vitið smámsaman komið til, þær hafa orðið flóknari, samsettari, skynsamari og vér getum verið vissir um, að lík þessu hefir sköpunarsaga Gyðinganna verið í fyrstu. Svo hefir hún smá-þroskast og orðið á endanum furðanlega úr garði gjörð, þó að nú myndi engum manni með nokkurri þekkingu koma til hugar, að búa til sköpunarsögu, er ekki væri fullkomnari, en Gyðingasagan.

Saga þessi lætr upphaflega ekkert vera til annað en vatn, að undanteknu fjallinu „Tamalpais". En hversvegna þurfti nú söguhöfundrinn að hafa fjall þetta fljótandi á vötnunum? Vér sjáum að hann þurfti að hafa einhvern bústað handa guði þeim, sem hann hugsaði sér, að hafði skapað alt. Guðinn var Coyote eða á íslensku: úlfr. Indíánaflokkr þessi, sem sagan hefir myndast hjá hefir óefað átt í stríði við sléttuúlfa. Hafa úlfarnir orðið þeim harðleiknir, svo að þeir hafa verið hræddir við þá, en dýr þau, sem villimenn voru hræddir við álitu þeir, að hefðu eitthvað yfirnáttúrlegt við sig. Það var því ekkert óeðlilegt, að menn þessir héldu, að þessi óvinr sinn, úlfrinn, væri guð, fyrst þeir gátu ekki ráðið við hann, fyrst hann var þeim yfirsterkari. Hinn guðinn, sem þeir láta hjálpa til við sköpunina er fálkinn. Þeir hafa séð fálkann hremma aðra fugla og álitið hann konung þeirra og þá lá nærri, að gjöra hann að guði líka.

Þetta er önnur útskýringin á þessu, en önnur er líka til og er hún sú, að úlfarnir hafi verið Indíánaflokkr og Greccoarnir eðr fálkarnir sömu-

leiðis og hafi höfðingjar þeirra verið miklir menn á sína visu og eftir dauða þeirra hafi þeir svo verið að guðum gjörðir.

Hún byrjar á því að ekkert sé til nema vatnið, en ef að vér lítum í Gyðingasöguna þá sjáum vér að þeir hafa einnig hugsað sér að „vötnin“ hafi verið til á undan öðru, því þar segir að jörðin hafi verið í eyði og tóm og myrkr yfir djúpinu, en guðs andi svam yfir „vötnunum“. Þessir viltu Indíánar hafa þó hugsað sér það, eins og Móses, að áðr en, að maðrinn hafi verið skapaðr á jörðinni, hafi trén og plöntur verið skapaðar. En báðar sögurnar komast þar skamt, því að hvorigr höfundrinn hefir þekt jarð- eðr náttúrufræði. Engu óskynsamlegra er það í þessari sögu en í Gyðingasögunni, að saga þessi lætr guð skapa einn og einn þjóðflokk út af fyrir sig. Þó er það ekki svo að skilja, að það hafi komið af neinn djúpskyggni, heldr af því, að þeir þektu fáeina flokka í kriugum sig, sem töluðu annað mál en þeir, og voru kannske í ófriði við þá, og fanst þeim því líklegast, að þeir væru sér eitthvað óskildir, og slógu því svo föstu, að guð hefði skapað þá sér í lagi. Þá kemr merkilegt atriði í sögu þessari, sem öllum þjóðum er sameiginlegt. En það er það, að þær hugsa sér einhverja löngu liðna gullöld, sæluástand. Þessir menn hugsuðu sér, að í fyrstu hefði svo til hagað að mennirnir þurftu ekkert að hafa fyrir lífinu, þeir lifðu í allsnægtnm og þurftu ekki annað, en að tína af trjánum allskonar fæðu, og meira að segja, var hún soðin. Hið eina starf þeirra var því, að eta, alveg eins og Adam og Eva í gömlu Gyðingasögunni. Svo gjörast mennirnir, sem eðlilegt var, latir á þessu og guð reiðist vsð þá, eins og hann reiddist við Adam og Evu og hegnir þeim með því, að svifta þá þessari sælu, eins og hann hegndi Adam eg Evu með því að reka þau úr Eden.

Í þessari sögu eru mennirnir eftir það, fyrst látnir eta hrátt, þeir kunnu ekki að kveikja eld eðr sjóða mat. Að þessu leyti er hún fullkomnari en Gyðingasagan. Það er eins og þá hafi órað við því, að sá hafi tíminn verið, að mennirnir þektu ekki eldinn og gátu ekki notað hann. Svo kemr sagan um það hvernig guð hafi bætt úr þessu.

Það er auðséð að saga þessi getr hvergi hafa myndast annarsstaðar en í Norðr-Ameríku þar sem Kolibri fuglinn er innlendr. Það er ekkert það í henni sem sýni það, að hún eigi rót sína að rekja til sköpunarsögu Gyðinga, heldr mælir alt á móti því, þó að einhverjum klerkinum kynni að koma til hugar, að villa fyrir alþýðu með því að bera það fram.

En til hvers er nú verið að setja hana hér þessa sögu ekki merkilegri en hún er? Það er til þess að sýna mönnum, hvernig sögurnar hafi verið, sem sköpunarsaga ritningarinnar er búin til eftir. Þannig lagaðar sögur hafa gengið meðal þjóðanna mann fram af manni áðr, en sú saga var búin til, sem stendr í fyrstu bók Mósesar. Og eftir svona löguðum sögum hefir saga Mósesar verið gjörð. Það er til að sýna hvernig hann er undirkominn innblástrinn, sem klerkar byggja á alla guðspeki sína. Það er til að sýna á hverju þessar guðdómlegu kenningar þeirra um víti og djöful og syndafall og endrlausn eru bygðar.

---

# 100

# ritningarstaðir, er sanna Unitaratrú.

[Þýtt].

:o:

XXXII. Hann segir sjálfr: „Eg em ekki kominn af sjálfum mér— eg em útgenginn og kominn frá Guði“. Jóh. 8. 42. og 7. 28.

Jesús vissi ......... „að hann væri kominn frá Guði og færi til guðs“. Jóh. 13. 3.

XXXIII. Hann segist ekki ráða sætum í ríki sínu......... „Að sitja mér til hægri og vinstri handar er ekki mitt að veita, nema þeim, sem Faðirinn hefir það fyrirhugað“, Matt. 20. 23.

XXXIV. Kristr segir lærisveinum sínum að þegar þeir muni þekkja sig betr, þá munu þeir sjá, að hann í öllu sé undirgefinn „Föðurnum“, eigi honum alt að þakka.

Jesús sagði við þá: „Þegar þér upphefjið (krossfestið) mannsins son, þá munuð þér þekkja, að eg em það, og að eg gjöri ekkert af sjálfum mér heldur tala eg eins og Faðir minn kendi mér“. Jóh. 8. 23.

XXXV. Kristr segist aldrei hafa vilja af sjálfum sér en segist stjórnast af vilja síns himneska föður. „Því að eg hefi niður stigið af himni ekki til að gjöra minn vilja, heldur vilja þess, sem mig sendi“. Jóh. 6. 38.

XXXVI. Hann neitar því, að hann hafi sjálfr vald á lífinu, því að hann segist „lifa fyrir Föðurinn.“ Jóh. 6. 57.

XXXVII. Hann neitar því, að hann sé ósköpuð vera eins og kirkjan kennir, þegar hann segir: „Eins og Faðirinn hefir lífið í sjálfum sér, svo gaf hann og syninum að hafa lífið í sjálfum sér“, Jóh. 5. 26.

XXXVIII. Hann neitar því, að hann sé almáttugr. „Eg megna ekkert af sjálfum mér“. Jóh. 5. 30.

XXXIX. Hann neitar því, að hann sé alvitr. „En þann dag og tíma veit enginn fyrir og ekki englar á himnum, né sonurinn og enginn nema Faðirinn einn“. Matt. 34. 26. og Mark. 13. 32.

XL. Það er sagt að Kristr hafi freistast af djöflinum, Matt. 4., en guð getr ekki freistast. Algóð vera getr ekki freistast, það er alveg óhugsandi. Freistingarsagan öll er því sláandi vottr um að Kristr hafi verið maðr, en ekki guð.

XLI. Það er sagt um Jesúm Krist að „ hann hafi legið alla nóttina á bæn til Guðs“. En hví var hann að biðjast fyrir, ef að hann sjálfr var guð. Lúk. 6. 12.

XLII. Að fjölda manns áheyranda fer Kristr að þakka föðurnum fyrir, að hann hafi heyrt sig: „Faðir! eg þakka þér, að þú hefir heyrt mig, eg vissi að sönnu, að þú hefir heyrt mig“. Jóh. 11. 41. og 42.

XLIII. Kristr bað föðrinn að gjöra sig vegsamlegan. „Gjör mig nú vegsamlegan Faðir hjá sjálfum þér með þeirri dýrð, sem eg hafði hjá þér áður, en heimurinn var“. Jóh. 17. 5.

En sá, sem biðr guð að gjöra sig vegsamlegan getr þá ekki sjálfr verið guð.

XLIV. Kristr biðr föðrinn, ef mögulegt sé, að taka kaleikinn frá sér og bætir þessu við: „Þó ekki sem eg vil, heldur sem þú vilt.“ Matt. 26. 39.

XLV. Á krossinum sagði hann: „Guð minn, Guð minn! hví hefir þú yfirgefið mig“ Matt. 27. 46. En sá, sem þetta segir, getr ómögulega verið guð sjálfr.

XLVI. Kristr tilbað aldrei sjálfan sig, sem soninn og ekki heldr heilagann anda, sem hann hefði hlotið að gjöra, ef að hann sjálfr, eða heilagr andi hefðu guðir verið, heldr tilbað hann föðrinn.

XLVII. Kristr sagði lærisveinum sínum aldrei að tilbiðja sjálfan sig, eðr heil. anda, heldr föðrinn, já föðrinn einan. „Þegar þér biðjist fyrir þá segið: Faðir vor, þú sem ert á himni“, Lúk. 11. 2., og „Á þeim degi munuð þér mig einskis spyrja”........„hvers þér biðjið Föðurinn í mínu nafni“ o. s. frv. Jóh. 16. 23. og „En sá tími kemur og er nú þegar kominn, að sannir tilbiðjendur munu tilbiðja Föðurinn í Anda og sannleika“ Jóh. 4. 23.

XLVIII. Það var ekki venja postulanna, að sýna Kristi tilbeiðslu heldr guði föðr fyrir Krist. „Eg þakka Guði fyrir Jesúm Krist“, Róm. 7 25. og „Einum alvitrum Guði sé, fyrir Jesúm Krist, dýrð um aldir, amen’ Rómv. 16. 27. og „Eg beygi þess vegna mín kné fyrir Föður Drottins vors Jesú Krists”, Ef. 3. 14.

XLIX. Þegar Pétr er orðinn fullr af heil. anda á Hvítasunnunni, þá ávarpar hann Gyðinga með þessum orðum:

„Þér Ísraelsmenn, heyrið þessi orð: Jesúm frá Nazareth mann þann, er Guð auðkendi fyrir yður með kraftaverkum táknum og stórmerkjum, sem Guð lét ske fyrir hans hönd meðal yðar eins og þér vitið, hann hafið þér eftir Guðs ráðstöfun og fyrirætlun ofurseldan tekið og með höndum óguðlegra krossfest og aflífað. En þenna mann hefir Guð uppvakið, og leyst úr dauðans böndum“ Post. Gjörn. 2. 22-24.

L. Postulinn Páll segir það skýlaust, að „alt sé af Guði, er friðþægði oss fyrir Jesúm Krist við sjálfan sig“ 1. Kor. 5. 18.

LI. Þessi postuli „þakkar Guði, sem gefur oss sigurinn fyrir Jesúm Krist“ 1. Kor. 15. 57.

LII. Í Phil. bréfinu er sagt: Guði Föður til dýrðar á sérhver tunga að viðurkenna, að Jesús Kristur er Drottinn“ Phil. 2. 11.

LIII. Í Hebreabréfinu er sagt: „Þannig tók og Kristur sér ekki sjálfur þann heiður að verða æðsti, heldur sá er við hann sagði: þú ert Sonur minn, í dag gat eg þig“. Hebr. 5. 5. Grein þessi er ein af sönnunum klerka fyrir guðdómi Krists, en þessi sönnun sjálf er svo mikil endileysa, að hún hlýtr að hafa alveg gagnstæð áhrif. Guð er látinn ávarpa Krist sama dag og hann er getinn (ekki fæddr heldr getinn) og vér verðum að álíta að Kristr hlusti á með andakt. og eftirtekt mestu. En —þá var Kristr í móðurlífi!!—

LIV. Í upphafi Opinberunarbókarinnar er það skýlaust sagt: „að Guð hafi gefið Kristi opinberun þá, sem Jóhannes fékk. Op.b. 1. 1.

LV. Kristr er kallaðr „Guðs ímynd" 2. Kor. 14. 4. og „mynd hins ósýnilega Guðs" Kol. 1. 15.

LVI. Kristr er kallaðr „frumgetningur allrar skepnu" Kól. 1. 15.

LVII. Hann er kallaðr „upphaf Guðs sköpunar" Opb. 3. 14.

LVIII. Ritningin segir að hann hafi „verið gjörður englunum óæðri“. Hebr. 2. 9. En hvernig getr guð verið eða orðið óæðri, en vera sú, sem hann skapar.

LIX. Ritningin segír, að Kristr hafi meðtekið af Guði Föður heiður og dýrð o. s. frv. 2 Pét. 1. 17.

LX. „Kristur var gjörður bræðrum sínum líkur Hebr. 2. 17.

LXI. Hann er borinn saman við Móses Hebr. 3. 3.

LXII. Hann er kallaðr þjónn guðs, hinn útvaldi, er guð gefi anda sinn Matt. 12. 18.

LXIII. Kristr segir, að Faðirinn léti sig ekki einan af þeirri ástæðu að hann gjörði það, sem honum (Föðurnum) þóknaðist. Jóh. 8. 29.

# EIMREIÐIN.

Innihald: Skáldskapr: sögur og kvæði, ritdómar, fræðandi og skemtandi greinar ýmislegs efnis o. fl. o. fl., á að byrja að koma út í Höfn á komandi vori. Ritstjóri verðr *dr. phil. VALTÝR GUÐMUNDSSON* kennari við háskólann í Höfn. Auk ritstj. hafa 5 lögfræðingar, 4 læknar, 4 náttúrufræðingar, 3 málfræðingar, 3 sagnfræðingar, 3 guðfræðingar, 2 verzlunarmenn, 3 alþingismenn og 3 skáld lofað fyrirtækinu liðsinni sínu.

Ritið kemr út í 5 arka heftum að minsta kosti tvisvar á ári og kostar hvert hefti 40 cents. Ritið mun að jafnaði verða prýtt með myndum til skemtunar og skýringar.

BOÐSBRÉFIÐ er til sýnis hjá G. M. Thompson, Gimli, sem tekr á móti áskrifendum að ritinu.

Sendið nöfn yðar til hans og gjörist áskrifendr að fræðandi og skemtandi ársriti, sem verðr mjög ódýrt.



Útsölumenn SUNNANFARA í Vestrheimi eru:
Sigfús Bergmann, Garðar, N.D.; G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn., og Bóksala G. M. Thompson. —— —— Gimli, Man.


G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans, bæði með pantanir og borganir


Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún" skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

"DAGSBRÚN" kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.
Árgangrinn kostar í Vestrheimi ........................ $1,00
Sendr til Íslands en borgaðr hér ........................ $0,75
Sendr til Íslands en borgaðr þar ........................ Kr. 2,00
—— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. ——
Skrifstofa blaðsins er hjá
Magn. J. Skaptason, 572 Alexander Ave., Winnipeg, Man. Canada.

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

Prentsmiðja G. M. Thompson.